# Stutt Avisan
fyrir adra enn Lækna
um
# Endurlifgun Daudfæddra Barna.

Í fyrstu samin og útgefin af því
konúnglega medicinsk chirúrgiska
**Heilbrigdis=Rádi**
í Kaupmannahøfn.

Utløgd á Íslendsku og útgefin af
**O. J. Hjaltalín,**
Distrikts-Chirurgo og settum Landphysiko.

Videyar Klaustri, 1820.
Prentud á almennann kostnad
af Faktóri og Bókþryckjara G. Schagfjord.



Børn, sem fædast, láta añadhvert strax eptir fædínguna eitthvert lífsmark í ljósi eda eckert; þau eru þá annadhvert öldúngis dauð, það er: rotnuð, ellegar sýnast vera dauð; þó má þau engu að síður allopt endurlífga, og kallast þess vegna dauðfædd, að þau liggja í dauðadái. Að barn sé lífs, þeckist af því, að það dregur andann, hljóðar og hrærir líkamann, og ber þá strax að binda fyrir naflá þess og skilja á milli. Að það þarámot sé fullkomlega dauðt, þeckist af því, að skinnið flysjast frá holdinu, að búkholið ber gulann og grænann lit, og að höfuðbeinin venju framar eru hræranleg, svo að þau auðveldlega gánga á misvíxl; þá er ecki þörf að binda um naflastrenginn, áður skilið er á milli, sem strax sé gjört, til að skilja móðurina við fóstrið, sem þá ecki er auðið að endurlífga. Að barnið einúngis sé í dái, eður sýnist

2) að

ad vera daudt, en þó ecki fullkomlega látid, má þaraf ráda: ad þó ecki géfi þad hljód af sér, ecki dragi andann og ecki hræri líkamann, þá flysiast samt ecki húdin frá holdinu, búk-holid er hverki gult né grænt, né heldur eru hofudbeinin svo laus, sem á bornum þeim, er tekin eru ad rotna. Þegar nú barni er þannig varid, er ecki vonarlaust ad takast megi ad endurlífga þad, þó andvana sýnist, t. d.: séu augun døpur, kinnarnar nidurhángandi, varirnar bleikar, hofudid dínglandi, adrir líkhams limir mjøg þróttlausir, naflastrengurinn grænn á lit og hræríngarlaus, og jafnvel þótt barnid hafi lengi komist hardt vid í fædínguñi, eda hafi loksins fædst med tregdu, med snúníngi edur med Fædíngar-tángar brúkun.

Til ad fá andvana fædt barn endurlífgad, skal eptirfylgjandi Tilraunir gjora:

1) Strax eptir þad barnid er fædt, hreinsist munnur þess nágvæmlega ádur naflastrengur sé sundurklipptur; þessu verd=

verdur hæglegast vidkomid, leggi madur barnid þvert um kjoltu, á adra hverja hlid, láti höfud slúta lægra enn brjóst og andlit nidurávid, stíngi svo vísifíngrinum lángt inní munn barnsins, og strjúki med hægd túnguna innanfrá frameptir, ad þar vid drægist slím og óhreinindi út í gégnum munninn; sé barnid smá-mynnt, má brúka fjødur í fíngursstad til umtaldrar hreinsunar.

2.) Því nærst adgjætist, hvert barnid er bleikt í andliti edur á hørund yfir allann kroppinn, somuleidis hvert veiklegt útlit hefir, edur dökkblátt og er þrútid í andliti, en líkhams hørund náttúrlega raudt, og fast átaks, ellegar þad vyrdist ad øllu leiti vera hraust.

3.) Sé barnid bleikt í andliti, þá skal binda um naflastrenginn, eins og vani er til, og klippa sídan sundur, til ad skiija á milli, en þar eptir sé strax farid ad brúka naudsynleg endurlífgunar medøl.

4.) Sé barnid þar á mót þrútid og dökkblátt í andlitinu, en vyrdist ad ødru

leiti vera hraust ad líkama bygglngu, edur hafi höfud þess lengi átt í fædíngarþreyngslum, þá skal strax klippa sundur naflastrenginn, án þess ádur um sé bundid, og láta úr honum blæda eitt spónblad, vilji blodid sjálfkrafa géfa sig fram, en þó ecki meira, því þar med veikjast kraptar barnsins ofmjøg; því nærst sé bundid fyrir naflastrenginn, eins og venja er til.

5.) Hafi uppá einhvern hér áminnstann hátt verid vid naflastrenginn gjort, sé barnid látid í trog, sem ádur sé fyllt volgu vatni; svo lángt þarf þad ad vera, ad barnid fái réttum beinum í því legid, og þarhjá svo djúpt, ad í því liggi svo mikid vatns, ad taki vel yfir allann kroppinn, þó svo, ad munnurinn einn og andlitid séu látin uppúr standa. Sé trogid ecki fulldjúpt, skal sveipa líkama barnsins frá hálsi allt ofan ad tám, í þunna ullarvod edur mjúka léreptsblæu, sem vætast á ydduglega í volgu vatni. A botn trogsins skal lérept leggja, svo ad líkami barnsins liggi ecki á ofhørdu edur skinnid hruflist af ójøfnum, sem finnast kunna í trénu.

Vatn-

Vatnid sé svo heitt, ad madur vel þoli ad halda hendi sinni þar í, en — eptir því, sem kólnar, skal bæta ödru heitara í; þess vegna er naudsynlegt vid hverja barnsfædíngu ad hafa á reidum höndum, ad minnsta kosti 6 edur 3 merkur af heitu og eins mikid af köldu vatni, til samblands og svo ad mátulega heitt verdi, því mjög er hættulegt ad leggja nýfædt barn í kaldt vatn, edur þó þetta sé ad eins tvolgt, ef ecki er nógu heitt. Pad er og gott, ad blanda lítilsháttar af brennuvíni í volga vatnid, hér um hálfum pela kornbrennuvíns vid 6 merkur vatns, einkum sé barnid veikt og ecki fullburda.

6.) Strax þegar barnid er lagt ofan í vatnid, skal leitast vid á medan þad liggur nidrí, ad greida þess andardrátt. Hér til er adferdin tvennslags:

a) Finnist hjartad slá í barninu, speñir madur hendi sinni þvert yfir brjóstid, gnýr sídan húdina svo fljótt, sem verdur, upp og nidur ad rifbeinunum, bídur svo augnablik og adgætir, hvert barnid ecki tekur ad draga and-

ann, og hvert andardrátturinn verdur ecki smámsaman sterkari; reyniſt ſvo, þarf ecki optar ad núa brjóſtid, en þar á móti ſkal reyna önnur upplífgunar medöl, ad því undanteknu, ad innbláſa lopti edur anda, hvers þá er ecki þörf. Vilji þar á mot andardrátturinn ecki vidhaldaſt edur fari minkandi, þá ſkal ſtrjúka brjoſtid, ſem ádur, og á líkañ hátt.

b) Verdi þar á mót ecki vart vid hjartſlátt, edur ad barnid dragi anda, eptir ad einuſiñi edur tviſvar er tilreynt ad núa edur ſtrjúka brjóſtid, ſem fyrr ſegir, ſkal tafarlauſt bláſa lopti edur anda inní lúngun, ſem ſvo gjöriſt: ad fyrſt er muñurinn hreinſadur enn á ný med fíngrinum, ſídan leggur madur munn ſinn ad munni barnſins, og blæs tviſvar eda þriſvar inn í hann, hvar vid þá allopt gánga ſaurindi og ſlím út um naſir barnſins. Þegar munnur þeſs er þañig gjörhreinſadur, ſkal taka med añarar handar tveimur fíngrum yfir um nefid, en víſifíngri hiñar handar ſkal ſtydja

ja á barkakýlid nedan undir hökuñi, lúta sídan ofan ad barninu, og undir eins ljúka dálítid upp munni þess med því ad þrýsta lempilega ad báðum kinnum þess, en blása svo jafnt og stórum inn í munn barnsins, uns sjest ad brjóstid tekur út ad búnga. Þegar brjóst barnsins er þañig fyllt med lopt eda vind, skal hætta innblæstri um hríd, en adgæta náqvæmlega, hvert hid innblásna lopt sjálfkrafa fer út aptur, sem opt skédur med lítilfjørlegu blásturs-hljódi; en verdi þessa ecki vart, skal leggja flata hønd sína á brjóst barninu og þrýsta hægt á, til ad koma loptinu út aptur. Taki barnid ecki ad draga anda eptir þad lopti er einusinni iñ í þad blásid, ítrekist blásturinn aptur á sagdann hátt, þángad til barnid añadhvert fer ad draga anda, ellegar engin lífs von er framar. Finnist þá vid þann innblástur loptsins, ad brjóst barnsins ecki hefjist eda búngi út, er þad vottur þess, ad annadhvert er muñur þess ecki fullhreinsadur, ellegar loptinu er ecki, sem ber,

innbláſid, og þad hefir ígégnum vælindid farid ofan í magann; gagnar þá ecki ad halda áfram innblæſtrinum, heldur ſkal enn ad nýu hreinſa munnn þeſs vel og vandlega, en ſjáiſt qvidurinn edur búkholid vera mjøg ſvo uppbláſid, ſkal leggja flata hønd ſína ofan á þad, til ad þrýſta loptinu út aptur. Þegar ſvo er á ný byrjad med innbláſtur loptſins, má halda nockud faſtara um nefid, ſtydja litid þéttara á barka-kýlid, ellegar halda munni ſínum oldúngis ad munni barnſins, og innbláſa ſvo ſterkara lopti enn ádur. Taki nú barnid ſmámſaman ad draga anda, betur og betur, má hætta innblæſtrinum, en gnúa þar á mót og ſtrjúka brjóſtid, ſem fyrr ſegir, þar hjá brúka ønnur endurlífgunar medøl, uns barnid fer ad anda vel og líflega, en haldiſt andardrátturiñ ecki vid, þegar brjóſtid er ſtrokid, er naudſynlegt ad innbláſa því lopti á ný.

Hin endurlífgunar medølin eru þeſsi:

7.) Ad

7.) Að gnúa barnið undir iljum, um hryggiñ, handleggi og fœtur, aña ðhvert með berri hendi, eður mjúkum busta.

8.) Að skélla á enda barnsins með lófanum, hvar við atbugaverdt er, að sé barnið piltur, skal púnginn leggja fram milli læra, svo eisiun meidist ecki við skéllinn, en egi þessi að gagna, má hann vera svo mikill, sem medal snoppúngur er barni géfinn, en aldeilis ecki hardari. Þettað itrekist tvisvar eður þrisvar, einkum sjái maður að líf færist í barnið, jafnvel þó það enn þá ecki megni að hljóða.

9.) Að halda einhverju kyktarsterku fyrir nøsum barns, sem þó ecki ollir því skaða, af því það drœgi daun af því að sér; má þar til best henta heitt edik eður og heit síra góð, en fordast skal hér til að velja brennusteins gusu, eður aña ð þesskonar, sem audveldlega deydir børn, en endurlífgar ecki.

10.) Að láta nockra dropa af køldu vatni drjúpa ofan í hjartagrófina, eður og sqvetta litlu þess í andlit barnsins; svo

að

ad vatnid drjúpi reglulega nidur; og er hentugast ad hafa thekonnu, í hverja látnir séu 2 gódir spænir af koldu vatni, halda henni álnar hátt edur enn hærra, beint upp yfir hjartagrófinni, hella svo vatninu hægt fram í stútinn, svo falli í dropatali nidur á réttann stad; þetta skal ítreka nockrumsinnum, en láta þó nockud lída á milli.

11.) Gjorlegt er og ad setja barninu stólpípu. Logur til hennar tilbúist af hálfum pela volgs vatns, hvarí uppleysist svo mikid af matarsalti, sem svari thesketid fullri; þettad spýtist med vanalegum stólpípu setníngar máta smámsaman inn í endaþarminn, sídan skal strjúka hægt um lífid med flatri hendi, til ad veita út aptur því innspýtta vatni, komi þad ecki brádum sjálfkrafa aptur, med nockrum grænleitum saurindum úr smáþormum barnsins.

Þessi endurlífgunar medol brúkist hvert eptir annad, í somu rød, sem ádur er um mælt, edur og fleiri þeirra undir eins ef verdur, og svo lengi skal þeim

fram-

framhalda án afláts, sem nockur lífsvon vyrdist fyrir barnid.

Ad audid verdi ad lífga barnid, géfa eptirfylgjandi merki von um:

a) Ad húdin sumstadar, einkum þar, sem strokid hefir verid um, líka kinnarnar og varirnar fá raudari lit.

b) Ad hjartad slær, eda tekur á ný ad slá. Hjartsláttur þessi finnst hægast vinstrameginn vid brjóstid, líka sjest hann í sjálfri hjartagrófinni.

c) Ad augnalokin og nasaholur barnsins vid og vid bærast smátt, einkum þegar, eptir ádursøgdu, ediks- edur sýru-gufan er látin leggja í nef því.

d) Ad barnid einstøkumsinnum geispar, sem andveldlega sjest á munni þess og brjósti, en einkanlegast í hjartagrófinni, sem dálítid bærist sjálfkrafa, og af lítilfjørlegu blísturshljódi í barninu.

e) Ad í fæturnar koma smákippir, þá iljar stroknar edur bustadar verda.

Ad þar á mót engin von sé til þess endurlífgunar, grunast af því:

a) Ad húdin ætíd er jafnbleik, eins þó barnid liggi í því heita vatni, og haldid sé fram med ad strjúka þad, líka af því, ad þorrundid, þó rodnad hafi, verdur bláleitt aptur.

b) Ad hjartad annadhvert ecki tekur ad slá, þó endurlífgunar medøl hér um bil hálfa kluckustund réttilega hafi brúkud verid, edur og hættir strax aptur, þo ádur hafi bædi fundist og sjest slá.

c) Ad barnid ecki geispar, hverki nasaholur né augu bærast og fætur qvika eckért, þó endurlífgunar medøl hafi nógu lengi og réttilega reynd verid.

Eñ — þó voñ um líf barnsins taki ad rjena, skal samt ecki hætta ad brúka fyrrtéd medøl, medan nockurt, þó ecki sé

nema

nema einúngis eitt, af ádurgreindum lífsmerkjum er ad finna hjá barninu. Taki þad þar á mót ad rakna vid, skal stødugt brúka lífgunar medølin, uns þad heyrist hljóda vel og hrærir líkamann.

Audnist ecki ad endurlífga barnid, á samt þá varúd ad brúka, ad sveipa þad í þurrum og volgum ullardúki, láta þó andlitid bert, leggja svo í volgt rúm, og géfa ad því opt náqvæmar gjætur; því dæmi eru þess, ad børn, sem vid brúkun og reynslu áminnstra endurlífgunar medala ecki hafa lífgud ordid, hafa ad klucku-stundu lidinni endurraknad, einúngis vid þad, ad þau løgd vóru á þurrann og hlýann stad; þó skal enginn leida sér í grun, ad þetta medal eitt einhlýtt sé, til daudfæddra barna endurlífgunar.



